# Forordning /
ahrærande
# UNGDOOMSINS
# CATECHISATION
i Islande.

utgefin a

Hirsch-Holms Slote, þañ 29. Maji Anno 1744.

Prentud a Hoolum i Hialltadal, Anno 1744.

# VIER CHRISTIAN Hiñ Siøtte/ af Guds Nꜳd/ Konungur i Danmørk og Norege / Vinda og Gauta / Hertuge i Slesvijk / Holsteen / Stormarn og Ditmersken / Greife i Oldenborg og Delmenhorst.

Giørum øllum vitanlegt, ad med þvi vier høfum ogiarnan mꜳtt verda ꜳskinia, ad jafnvel þott þad hafe vered alvarlega skipad med margvislegum Konunglegum Skickunum, Løgum i Islande og Ordinantziu Christians þess Fiorda Konungs, Hꜳsællar og Hꜳloflegrar Miñingar, ad Prestarner a Voru Lande Islande skule med Kostgiæfne og ꜳn nockrar Forsomunar a hverium Suñu-Dege yferheyra Ungdoom iñ og Uppfræda hañ i Barna Lærdoomunum med Lutheri Utlegging; Þa giøre þo so stoor Brestur og Hyrduleyse vart vid sig þar i, bæde hiꜳ þeim Andlegu, og so Almwganum i þvi Lande, ad þegar Vor General-Kyrkna Visitator, epter Tilskyldan þeirrar Instructionis, sem hønum er af Oss gefiñ, hefur, þa hañ var komiñ til Hoola, skipad Prestunum i þvi Biskups Dæme, ad hallda Catechisationeñe frañ med stærre Kostgiæfne eñ sked var þꜳngad til, og ꜳn Forsoomunar, þa skulu þo sumer af Almwganum hafa hallded þad vera nockurs-

konar

konar nijtt og Ovenjulegt, og hafa aññadhvert ecke komed til Kyrkiuñar, edur og, þegar Presturiñ hefur byrjad ad Catechisera, hlauped wt wr Kyrkiuñe, so ad þessu vigtuga Verke, a hverin þo þess meira rijdur i þvi Lande, sem þar fiñast enger almeñeleger Barna-Skoolar, skal eñ þa ecke hafa orded komed i neina Mynd og Legun til Gagns, aññadhvert vegna Ovitur-legrar Hrædslu nockra Presta, edur vegna Hreckvijse og Hyrduleyses Almwgans; Þvi er her med Vor Allra-Nadugaste Vilie og Befaling, so sem Vier og her med Allra-Nadugast skipum og befolum.

I.

Ad Prestarner a voru Lande Islande, skulu epter þeirre Allra-Nadugustu Befaling þess Hav-Sæla og Hav-Loflega Konungs CHRISTIANI Qvarti, sem er wtgefeñ þañ 22. Aprilis 1635. wtlögd a Islendskt Maal, og prentud a Hoolum, þañ 20. Maji 1636. a hverium Suñudege, þegar þeir hindrast ecke af Logmætum Forfollum, uppfræda og yferheyra Ungdoomiñ i Barna-Lærdoominum og sañre Guds Þecking, ef þeir vilia ei verda fyrer Asökun og Straffe epter somu Befaling.

2.

So ad þeir hafe þvi helldur Tijd til ad Catechisera, og Soknar-Foolked þurfe ecke ad tefiast ofleinge adur eñ þad kemst heim aptur, hellst þegar Daguriñ er stuttur og kallt er a Vetrar Tijma; Þa skulu Prestarner predika þess styttra, og ecke lengur eñ haalfa Stund, þvi nærre Eina.

3.

Þeir skulu framar ollu giæta þess, ad Ungdoomuriñ lære vel og rett þañ litla Catechismum hins Sæla Doct. Martini Lutheri, an þess, ad bæta þar nockru vid, umbreita edur fella

undañ, lijka ad hañ lese hañ fram̃ med Athuga, so ad Prestarner mega ecke laata sier nægia med þad, ad (Berneñ) lese hañ aafram̃ Ord fyrer Ord, helldur skulu þeir grennslast epter med Spurningum, hvert hiner Ungu skilia Meininguna rett til Gagns af þvi sem þeir hafa fram̃fært.

4.

Prestarner skulu i þeirra Catechisation bruka þa Utskijring yfer Catechisminum sem hefur vered skipud af Oss til almeñelegrar Brukunar allstadar i Kyrkium og Skoolum i baadum Vorum Kongs Rijkium, og ecke laata þar vid lenda, ad þeir lesa eiñ Part upp þar af a Predikunar-Stoolnum, helldur skulu þeir ransaka Ungdoomiñ epter Embættẽd, edur Guds Pioonustugiord a Kyrkiu-Goolfinu hvad hañ hafe munad þar af.

NB ofo

5.

J Adferdeñe ad Catechisera, mega Prestarner enganveginn laata sier nægia med þad, ad hiner Ungu sege Svared þañig sem þad stendur i Bookiñe, helldur skulu þeir bæde um̃breita Spurningunum og laata þa svara þar til med sialfra þeirra Ordum þott þau seu Einfalldleg, og sijdan Utskijra og heimfæra þad til Uppbyggingar, sem spurt og svarad var, og seinast aptur ransaka, hversu ad Ungdoomuriñ hafe þad skiled.

NB

6.

Þær Greiner Ritningareñar, sem koma fyrer i Utskijring yfer Catechisminum, ega ad synast og ransakast epter þeim Ordum, i hverium Grundvølluriñ liggur, til þess, sem skal bevijsast þar med, so ad Ungdoomuriñ gete vitad þess helldur til hvers hañ hafe lært þær Greiner Ritningareñar; Og so ad Prestarner og Alþijdan faae skiled þetta þvi betur, þa

skulu

ſkulu aminſt Ord i ſømu Greinum Prentaſt med ſtærra Stjl, eñ hin Oñur, þegar ſu Utſkiring yfer Catechiſmum, ſem Vier høfum tilſkipad, verdur prentud a ny. Og ſo ad bæde Børn og Tilheyrendur upporfeſt til Eptertekkar, und-er Heyrn Predikunareñar og Guds Ords, þa mæ Preſtur-iñ og ſo heimta Skil af ſierhvoriu Barne edur ødrum af ſijn um Tilheyrendum, fyrer þad ſem þeir hafa munad ur Pre dikuneñe ſier til Uppbyggingar.

7.

Keñemeñerner ega ad audſyna alla Aſtwd og Hogværd vid Børneñ i ſijnum Catechiſationum, æſamt med rettre Alvørugefne, og læta ſig ecke yferſtijga af Reide, eñ ſijdur upphlaupa med vondum Ordum, þott þau ecke ſvare rett edur ſkilie þa framſettu Spurning ſtrax i Stad, ſo ad þau verde ecke hrædd fra ad vera vid Catechiſationena.

8.

Pad ſkal ecke vera bañad neinum Preſte ad ranſaka ſijna Tilheyrendur þa þeir koma i Skrifta-Stooliñ, hvada Þeck-ing þeir hafe a Gude, og hvada Framfør þeir hafe giort þar i, hellſt þegar nockur Okuñugur er komeñ i hañs Sokn, hvert ſem ſa ætlar ad bwa þar, eda vera þar Viſtfaſtur.

9.

Forelldrar og Hwſbændur ſkulu vera ſkylldugar til ad ſki-pa og hallda Børnum ſijnum og Hiwum, ad vera æn all-rar Forſoomunar vid þeſſa Catechiſation, ſem ſo er harla naudſynleg, þegar engiñ Løgleg Forføll og bevijſanleg Or-ſok hindrar þau þar fra, ſo framarlega ſem þeir vilia ecke ver da fyrer Straffe, ſo ſem fyrer Helgedags Brot, epter þad þeir hafa vered æminter.

J Catechiſationeñe ſkulu bæde Pilltar og Stulkur gaanga fram a Kyrkiu Golfed, og añars vera vaneñ til ad tiaa ſig Hæverſk og Gudrækiñ i Vidmoote og Limaburde; Þau ſkulū þa tala Haatt og ſkilmerkelega, hvad Preſtenum ber og ad athuga, ſo ad allur Søfnuduriñ mege hafa Gagn af þvi: Og ſo ad allt fare ſkickanlega fram, þa maa eitt Barn ecke hindra añad þegar þad gefur Svar, edur ſipa fyrer þvi.

11.
Hverke Ungum ne Gømlum, Gyftum edur Ogyftum, Børnum ne Fullordnum aa þad ad leifaſt, ad gaanga wt wr Kyrkiuñe, añadhvert fyr eñ Catechiſationen byriar, edur medan Catechiſationen ſtendur yfer, helldur ſkulu þeir aller vera þar kyrrer, ef ecke neiñ Siwkdoomur edur beviiſanleg Orſøk hindrar þad; So framarlega ſem þeir vilia ecke vera aalitner, epter fyrerfaranda Nijunda Articula. Og maa læſa Kyrkiu-Dyrunum, til ad hindra øll Hlaup wt wr Kyrkiunum.

12.
So ad Ungdoomuriñ venieſt vid i Heima-Hwſum ad læra nockud Gott, til þvi ſtærre Framfara i ſiñe Þecking, þa ſkulu Preſtarner ſetia þeim Børnum fyrer, ſem añadhvert kuña ad leſa, edur laata keña ſier þad af Forelldrum ſijnum, Hwsbændum edur Naakomnum, viſſa Parta af Catechiſmo, edur hañs Utſkijring, ſem hiner Ungu ega ad læra heima i Vikuñe, utan Bookar; Skal heimta þad af þeim aa hverium Suñudege, og gefaſt Aviiſun med hveriu moote Børneñ ege ad læra utan-Bookar, med Skilninge ſier til ſañrar Nytſeme, epter þvi ſem greiner i 5 ta Articula.

13.
So ad allt þetta verde þvi betur framkvæmt, þa ſkal Preſt-
uriñ

uriñ hafa i hinum miñe Kyrkiu-Sooknum Tvo, og i þeim stærstu Fioora Medhiaalpara, sem ega ad gefa Giætur ad Ungdoomenum, og siaa til þess, ad hañ vanræke ecke þa Jdkun, sem er i Catechisatioueñe. Þessa Medhiaalpara maa Presturiñ siaalfur wtvelia med Profastsens Vitund af þeim, sem eru hellster Bændur og best kuñande i Sookniñe, og ega þeir sømu þa ad giæta þess, sem Løgiñ biooda; Og maa enginñ koma sier hiaa þvi, ad takast Medhiaalpara Embætte aa Hendur.

14.

Prestarner skulu, so þeir mege þess helldur vita hvert og hversu Foreldrar og Hwsbændur laata sier vera gefed um Uppfræding Barna siña og Hiwa, so optlega sem þeir geta þvi vidkomed, og hid minsta Tvisvarsiñum aa Are (epter Befalingum þeirra Haa-Sælu Konunga CHRISTIANI Qvarti og CHRISTIANI Qvinti, af 22. Aprilis 1635. og 28. Februarii 1691. Art. 1.) rijda aa hvern Bæ i þeirra Sooknum, hvar þeir ega þa medal añars, sem þeir skulu giøra i Hws-Vitian, grenslast epter þeim Uppfrædingar-Hætte, sem brwkadur er aa Bænum, og segia i Kiærleika til þess, sem þarf Lagfæringar vid.

15.

So ad her um verde þvi giør vitad, þa skal hver Profastur Visitera aarlega i sijnu Profasts-Dæme, þegar Superintendenten Visiterar ecke i þvi Herade, og skal hañ þa naakvæmlega grenslast epter um aasigkomulag Prestaña og Sooknareñar, og einkanliga Ungdoomsins, og sijdan greina sijnum Biskupe af øllu þessu, hversu hañ hafe fundid hveru-tveggiu ad vera i aadurtiedu: Og skal Profasturiñ, sem hefur þad, hvad Løgin leifa, fyrer þad, af þeim Kyrkium, er geta betalad, þar a moote Visitera þær faatækustu Kyrkiur,

sem

sem eckert geta utelaated, fyrer alls eckert. Su Kyrkia, fyrer hverre siaalfum Profastinum er trwad, aa, þegar hun er añars so aasigkomin, ad um̃ hana maa tvijla, ad Visiteraſt af einum ødrum skickanlegum og dugandis Preste, hver en Preſt Superintendenten skipar þar til, þaangad til hañ getur siaalfur komid i siñe veniulegu Visitation: Og a Profasturiñ ad betala þeim Preste, so myked fyrer þa Visitation, sem añars ein Kyrkia betalar, er hefur sømu Iñtekter. Superintendenten skal vera skylldugur til ad Visitera Eiñ Part af Stiptenu a hveriu Are, og i þeirre siñe Visitatiu ecke alleina skrifa Kyrkiuna upp edur taka Kyrkiuñar Reikning, helldur fyrst og fremst yferheira Ungdoomiñ, sem a ad koma þar med Kostgiæfne; Hyggia ad Dugnade Prestaña og hversu þeim fer fram i Adferdeñe ad Catechisera, eiñig ad ødru, sem snerter hañs Embætte, og iñsenda aarlega eina Relation þar um̃ fyrer Vort General Kyrkiu Inspections Collegium, med Allra-Underdanigastre aavijsan um̃ þad sem hañ hefur teked epter, ad være Christendoomenum til Hindrunar, edur kiñe ad gagna til hañs Eblingar. Añars villum Vier Allra-Naaadugast, ad þesse Vor Forordning, asamt þvi, sem Vor Norsku Løg iñehallda um̃ þa er ega ad hallda sier fraa Kvølldmaaltijdareñar Sacramente, um̃ Svar-Daga og Barna Aga, se upplesin aarlega a Predikunar-Stoolnum a Paalma Suñu Dege og Fioorda Suñu Dege i Adventu fyrer Søfnudunum, so ad aller vite þar epter ad giøra, og hun verde Allra-underdanigast adgiætt allstadar a Voru Lande Islande, eins a Fasta Landinu, sem þar hiaa og underliggiaade Eyum, og ad þar se þañig eptirgengid af þeim Yfervallds Personum, Andlegrar og Veralldlegrar Stettar, hveriar af Oss eru Allra-Naadugast skickad-

ar,

ar, so sem þær sialfar vilia svara fyrer. Hvers vegna Vier biodum og befølum her med Vorum Stiftbefalnings Mañe, Biskupum, Amtmañe, Løgmøñum, Syslumøñum og ødrum til hverra þesse Vor Forordning verdur send, ad þeir laate strax lesa hana upp, og kuñgiøra a tilhlijdelegum Stødum øll um til Epter-rettingar. Utgefed a Hirsch-Holms Slote þañ 29. Maji. 1744.

Under Vorre Kongleg. Hende og Signete.

# Christian R.

(LS)

Þesse Allra-Nædugasta Forordning um Catechisationena fyrir Ungdoomenum i Islande, er epter Allra-Nædugustu Befalning til mijn Dater. a Hirsch-Holms Slote þañ 29. Maji 1744. Utløgd a Islendsku epter þvi danska Exemplare, og laaten utganga a Prent. Test: Skalholte þañ 29. Augusti. Anno 1744.

Ludvig Harboe.

# Kongl. Majestatis Nꜳd-ar Brez / hlioodande uppa litla Catechismum Lutheri, og hvernen Prestarner eige hønum fram̃ ad fylgia i Soknunum.

* * * * * *
* * *

VIer CHRISTJAN sa Fiorde/ med Guds Nꜳd/ Danmerkur/ Noregs / Vendis og Gottis Kongur/ Hertoge i Slessvig/ Holsten / Stormaren og Dithmersken/ Greife i Oldenborg og Delmenhorst / etc. Giørum øllum vitanlegt, Ad epter þvi sem Vier Nꜳdarlegast reynum (eda fꜳum ad heyra) hversu ad Ungdoomurin̄ þar ꜳ Voru Lande Islande, skal miøg illa forsoomast, i þvi, hønum er ecke undervijsad, i sijnum Barna-Lærdoome, og san̄re Guds Kyn̄ingu, so sem hæfer (edur ber) Þa vilium Vier her med Nꜳdarlegast vidvarad hafa, Biskupa, Profasta, Presta, og alla Kyrkiu-Þenara, ꜳ fyrr-nefndu Voru Lande Islande, ad þeir fram̃filge, þeim sama Barna-Lærdoome Iduglega og Trwlega, og uppleſe og utlegge i hverre Predikun, epter Gudspiallsens Utlegging, ein̄ Part af þeim sama Barna Lærdoome, so og lꜳte Børnin̄ koma fyrer sig, hlijde þeim yfer, og ken̄e

keñe þeim fyrer utan, þeirra Barna Lærdoom, Doct. Mart. Lutheri Utlegging, af þeim litla Lutheri Catechismo. Somuleides, keñe þeim ad fœra sama siñ Lærdoom, til Christelegrar og Gudlegrar Tijdkunar i sijnum Daglegum Bænunu, og Gudlegum Jdkunum, so og i Lijfe, Framferde og Umgeingne. Þeirra Barna sem eru so sma, skulu þeir vitia i Hws Forelldraña, og undervijsa þeim þar; so framt sem Prestarner forsooma þetta, þa skulu þeir i Fyrsta Siñe og Añad, gefa til Fatækra, epter þeirra Formegun, Þridia Siñe hafe forbroted sitt Kall. Og skulu Profastarner i sama Mata standa til Retta, ef þeir forsooma, ad aumiña Prestana, og hafa Athugasemе (edur Tilsioon) uñ þar. Bioodande þar fyrer og bijfalande Vorum Lens-Mañe, so og Biskupunum, sem nu eru, edur hedan af verda kuña, ad þeir hafe Athugaseme her uñ, so framt þeir vilia ecke svara til þess, og standa oss til Retta, so sem þeir er ecke hallda sig so Kostgiæfelega i sijnu Embætte, sem þeirra Forplictun og Eidur helldur þeim til.

Gefed a Voru Slote Kaupenhafn, þañ 22. Aprilis Anno 1635. Under Vort Signet.

CHRISTIAN.

Þryckt a Hoolum i Hialltadal, Anno 1636. þañ 20. Maji.